# ÆFI ÁGRIP

# GUNNARS GUNNARSSONAR,

PRESTS AÐ LAUFÁSI,

OG

# RÆÐUR, FLUTTAR VIÐ ÚTFÖR HANS.






KAUPMANNAHÖFN.

Prentað hjá S. L. Möller.

1858.

# I.

## ÆFI ÁGRIP,

samið af

**Birni** presti **Halldórssyni** í Laufási.

---

Gunnar prestur Gunnarsson er fæddur að Upsum á Upsaströnd í Vaðlaþíngi hinn 24. dag Januarmánaðar 1781. Faðir hans var sèra Gunnar Hallgrímsson, smiðs Jónssonar, Hallgrímssonar, Sigurðssonar, Sæmundssonar, bónda í Eyjafirði. Móðir hans, og kona sèra Gunnars Hallgrímssonar, var Þórunn Jónsdóttir, prests að Hálsi í Fnjóskadal, Þorgrímssonar, prests samastaðar, Jónssonar, prests að Þóroddstað í Kinn. Sèra Gunnar Hallgrímsson prestvígðist frá Grenjaðarstöðum 1769 að Upsum, og kvæntist 6 árum síðar. Með konu sinni Þórunni átti hann 5 börn; þrjú þeirra dóu á únga aldri, en tvö náðu fullorðins árum, nefnilega Katrín, kona sèra Ólafs Þorleifssonar að Kvíabekk, og Gunnar sá er hèr segir frá. Gunnar ólst upp í foreldra húsum á Upsum, þar til er hann var 15 vetra; þá sendi faðir hans hann

í skóla að Hólum, og var hann þar 5 vetur, þángað til 1801, að Hóla skóli var af numinn og sameinaður við skólann í Reykjavík. Hafði þá Gunnar í hyggju að komast í þenna Reykjavíkur skóla næsta haust, og ljúka þar af lærdómsiðn sinni; en snjóar og illviðri, sem venju framar gengu snemma í garð þetta ár, hömluðu honum frá þessari fyrirætlun, svo hann varð að setjast að heima hjá föður sínum, og var þar um kyrt hinn næsta vetur. Sumarið eptir rèðst hann til Geirs biskups Vídalíns, fyrir milligaungu Jóns Jónssonar, þess er nú er prestur að Grenjaðarstað, en áður að Stærra-Árskógi. Gunnar fór suður um haustið 1802, settist að hjá biskupi, sem þá var á Lambastöðum, og varð skrifari hans. Ári síðar, eður í Decembermánuði 1803, var hann reyndur af biskupi í skólalærdómi, og útskrifaður. Á Lambastöðum dvaldi hann í fjögur ár; en er biskup flutti sig þaðan til Reykjavíkur, þá fór hann með honum þángað, og var hjá honum í sömu þjónustu, meðan auðið var, allt fram að dauðadegi Geirs biskups, 20. September 1823.

Á þessum árum hafði Gunnar tekið sèr það fyrir hendur, eptir vilja og ráði húsbónda síns, að nema læknisfræði, sem hann hafði verið hneigður til allt í frá barnæsku. Landlæknirinn, sem þá var Tómas Klog, varð honum og góður leiðtogi og styrktarmaður í þessu

efni. Frá árinu 1810 tók Gunnar algjörlega til að lækna, með samþykki ok umsjá herra Klogs. En þegar Klog 1816 fór hèðan af landi alfarinn, þá veitti hann Gunnari lækn- isleyfi (*veniam practicandi*) til að verða *licentiatus medicinæ & chirurgiæ*, og var þetta leyfi ári síðar staðfest af hinu danska kansellíi.

Nokkuð á annað ár eptir fráfall Geirs biskups gegndi Gunnar skrifara-störfum hjá vini sínum, stiptprófasti Árna Helgasyni, þángað til herra Árni skilaði biskupsverkum í hendur Steingrími biskupi Jónssyni. Eptir það gaf Gunnar sig að mestu leyti við lækníngum, og hèlt þeirri iðn áfram í Reykjavík þángað til 1828[1]. Á því ári andaðist faðir

1) Sá sem þetta ágrip ritar þekkir því miður allt of lítið til æfi sèra Gunnars á þessum árum, eins og yfirhöfuð til alls þess, sem dreif á daga hans meðan hann átti aðsetur í Reykjavík. Einúngis þess vil eg hèr minnast, sem mèr er kunnugt af orðspori nú lifandi manna á Suðurlandi, að hann hafði á sèr gott álit fyrir þekkíng, lagsæld og lán í þeim efnum, sem að lækníngum lutu, var talinn ljúfmenni hið mesta, þótti hvervetna velkominn í sèrhverjum mann- hríng, æðri eða lægri, og var yfirhöfuð vel metinn og vin- sæll af öllum, er til hans þekktu. Hann hafði um þessar mundir, auk lænisstarfa, ýmislegt annað á hendi, bæði fyrir sjálfan sig, og vegna þess þáttar, sem hann með ýmsu móti tók í lífi og háttum bæjarmanna, og vegna kunníngskapar við ýmsa menn, nálega út um allt land, sem leituðu milli- gaungu hans og fálu honum á hendur vandamál sín og erinda- gjörðir í Reykjavík, eins og sjá mátti nóg merki til af brèf- um þeim, er hann lèt eptir sig. Það má og meðal annars ráða af öllu því, sem skrifað fannst eptir hann frá þeim

hans að Laufási, hinn 14. dag Februarmánaðar. Móðir hans, madama Þórunn, var þá enn á lífi, gömul og örvasa, svo að hún þótti varla flutníngsfær af staðnum. Lagði hún þá fram við son sinn þá innilega bón, að hann sækti um brauðið, svo að hún, ef hann fengi það, mætti þá eiga athvarf í hans skjóli, það er eptir væri. Að þessu studdu margir vinir Gunnars; rèð hann það þá af að beiðast brauðsins, og það engu að síður þótt honum í rauninni þækti öllu fýsilegra að þekkjast það boð, sem honum var gjört um þær mundir af nokkrum vildarmönnum hans í Reykjavík, er undu því stórilla að missa hann þaðan, og buðust til að útvega honum sæmileg laun, svo honum væri fullborgið til að geta framvegis verið þar sem hann var, og haldið áfram hinni sömu, kæru iðn sinni. Brauðið var honum veitt 19. Mai 1828, og veitíngin staðfest af konúngi næsta ár þar eptir. Áður hafði hann, 1821, fengið frá konúngi meðmælisbrèf til hvers, er hann sækti um, af hinum betri meðalbrauðum landsins. Næsta þrenníngarsunnudag eptir veitínguna tók Gunnar prestvígslu, og fór norður að Laufási samsumars. Stóð þá svo á, er

---

árum og hinum fyrri, meðan hann dvaldi fyrir sunnan, að hann hafi verit ótrauður iðjumaður, og ekki sóað tímanum í aðgjörðaleysi, eins og honum heldur aldrei var tamt, meðan tími gafst.

hann kom þángað, að þar var móðir hans nýdáin, og var hann við útför hennar 22. Juli. Nú tók sèra Gunnar við búi í Laufási, og bjó þar fyrst 6 ár með dóttur sinni Þóru, er hann hafði átt á fyrri árum sínum í Reykjavík, við Guðrúnu nokkurri Jónsdóttur, er seinna giptist öðrum manni, og nú er bóndakona í Mosfellssveit. Sama ár og sèra Gunnar prestvígðist, var hann skipaður fyrsti sáttanefndamaður í Grýtubakka umdæmi, og ári síðar var hann kjörinn brèflegur limur hins konúnglega norræna fornfræðafèlags í Kaupmannahöfn. Arið 1834 kvæntist sèra Gunnar, og gekk að eiga jómfrú Jóhönnu Gunnlaugsdóttur Briem, sýslumanns í Vaðlaþíngi, Guðbrandssonar. Brúðkaup þeirra fór fram hinn 9. Oktober, og hinn sama dag giptist dóttir hans, jómfrú Þóra, prófasti sèra Halldóri Björnssyni, presti að Eyjardalsá, en síðan að Sauðanesi. Með konu sinni átti sèra Gunnar 5 börn, sem öll lifa og þykja mannvænleg[1].

---

1) Börn þessi eru.

1. Gunnlaugur Tryggvi, fæddur 1835; lærði timbursmíði hjá móðurbróður sínum Ólafi Briem á Grund, en hefir nú aðsetur í Laufási.
2. Katrín Kristjana, fædd 1836; nú farin að Hálsi í Fnjóskadal með móður sinni.
3. Gunnar Jóhann, fæddur 1839; til kennslu undir skóla hjá sèra Birni í Laufási.

Sèra Gunnar Gunnarsson var maður í minna meðallagi á vöxt, en vel á sig kominn. Hann var ljóseygur, bjartur á hár og skeggslit, rèttnefjaður og nokkuð stórnefjaður, ennið mikið og höfðínglegt; munnfríður var hann og glaðlegur í bragði, en þó svipdjarfur, og að öllu sómdi hann sèr vel í audliti. Hann var lèttleikamaður mikill, hvatur á fæti og fjörlegur fram til hins síðasta. Lagvirkur var hann á allt er hann gjörði, hagur vel, saungmaður í betra lagi og skrifari einhver hinn bezti á sinni tíð. Manna vandvirkastur var hann, að hverju sem hann gekk, en ekki svo fljótvirkur eður stórvirkur. Af náttúrunni var hann nokkuð ör í skapi, en þó jafnaðarlega stilltur vel. Hann var reglumaður hinn mesti í öllum greinum, búsýslumaður mikill, umhyggjusamur, hagsýnn og forsjáll[1].

---

4. Eggert Ólafur, fæddur 1840, og 5. Geir Finnur, báðir hjá móður sinni á Hálsi.

1) Strax á fyrstu árum búskapar síns tók sèra Gunnar sèr fyrir, að koma á æðarvarpi í Laufáshólmum. Við þetta fyrirtæki lagði hann hina mestu rækt, og það blessaðist líka svo vel, að við fráfall hans vóru hreiður orðin full hálf þriðja þúsund, þar sem við komu hans naumast vóru 10 alls á sundrúngu.

Eins byrjaði hann á því, strax er hann var seztur að í Laufási, að koma þar upp jarðeplagörðum. Hafði slík tilraun góðan árángur, ekki að eins fyrir sjálfan hann, heldur og fleiri, því aðrir tóku þetta eptir honum í sveitinni, enda hvatti hann líka mjög til þess í kríngum sig, og styrkti til þess alla, er hann gat, með því að hjálpa þeim um útsæði, og það ekki sjaldan fyrir alls enga borgun. Má og sjá þessa

Honum græddist fè og hèlzt vel á, enda var hann hófsemdarmaður, og fór vel og sparlega með það er hann hafði handa í millum, ekki af því, að hann elskaði auð þessa heims, heldur af hinu, að honum þótti ekki sæma að sóa, eptir sið aldarinnar, tímanlegum gáfum til ills eða ónýtis. Í fjárskiptum við aðra var hann sanngjarn og rèttsýnn, leit ekki síður á hag annara, en sjálfs sín, og þegar því var að skipta, þá vildi hann ætíð heldur láta hallast á sig í viðskiptum, en að draga sèr nokkurn hlut fram yfir það er hann átti. Eins var það, ef fè skyldi fram leggja til almenníngs heilla eða sóma, ellegar til hjálpar þurfandi, þá gjörðist hann optsinnis forgaungumaður að slíku, en aldrei annara eptirbátur[1]. Yfirhöfuð var sèra Gunnar uppbyggilegur maður í sinni stöðu og sínu fèlagi. Hann var lánsmaður, og svo þókti líka sem flestum, er saman við hann áttu að sælda, stæði af honum eitthvað gott. Hann hlynnti með

---

ljósar menjar, bæði á bújörð sjálfs hans, þar sem nú eru 2 stórir jarðeplagarðar, og eins á flestum bæjum í sókn hans, því þar er nú víðast hvar á komin meiri eður minni jarðeplarækt, sem engin var áður.

1) Mörg dæmi mætti þess finna, ef leita skyldi, að sèra Gunnar sá ekki eptir sinu til að gjöra vel. Hèr skal að eins þess getið, að um vorið 1832 tók hann til sín Jón Þorgrímsson frænda sinn, blindan og snauðan, og hèlt hjá sèr á meðan honum entist aldur til. Aðrir ættmenn Jóns, jafnskyldir, lögðu eitthvað með honum tvö eða þrjú hin fyrstu ár, en síðan enginn annar en sonur hans fáein ár nokkuð.

orði eður verki að hverju því, sem honum virtist miða til rèttrar siðsemi, ellegar til almennrar gagnsemdar og vellíðunar. Hann hafði andstygð á öllum ósiðum og ómennsku, reyndi því til, sem hann bezt mátti, að eyða slíku og uppræta það í kríngum sig. Hann vildi öllum vel, og enda þó það væri mótstöðumenn hans, sem í hlut áttu. Hann var ráðhollur og ráðglöggur, og þótt hann ekki væri neinn fyrirtaksmaður að gáfum eður lærdómi, þá sá hann betur fram í veginn en margir aðrir; enda var það og jafnaðarlegt viðkvæði hans, að „endirinn skyldi í upphafinu skoða", og í hverjum hlut reyna til „að tína gull úr grjóti". Öll embættisverk og skyldur embættisins fóru honum vel af hendi; hann hirti prestssetrið rækilega, og hafði stöðugan andvara á því, að hvergi gengi neitt undan frá heimajörðinni eður kirkjueignum fyrir áleitni annara. Ræðumaður var hann í góðu lagi, auðskilinn og rèttorður.

Alltaf á meðan sèra Gunnar lifði lagði hann huga og hönd á lækníngastörf; heppnuðust honum þau vel, og einkum framanaf; eptir það hann kom norður hèr, áður en læknar tóku til að fjölga í Þíngeyjarsýslu, var mikil aðsókn til hans úr ýmsum áttum, því hann hafði það almenníngs orð á sèr, að hann væri læknir góður; tók hann og einatt sjúklínga til sín á heimili sitt, opt fyrir

lítil laun og stundum engin. Manna nákvæmastur var hann í allri aðbúð við veika, lagði fram allan áhuga og sèrhverja líklega tilraun til að bæta þeim mein þeirra, vitjaði þeirra jafnan fúslega, þegar þess var leitað, á meðan heilsa hans leyfði; og honum auðnaðist líka optast að sjá einhvern gleðilegan ávöxt þessarar ástundunar sinnar og iðju; því margir urðu alheilir fyrir hans aðgjörðir, flestir fengu nokkra bót, og þeir sem töldu sig eiga honum það að þakka, þeir báðu honum góðs meðan hann lifði, eins og að enn í dag hugir og túngur margra blessa fyrir hið sama yfir minníng hans látins.

Í öllu samblendi og samvist með öðrum var sèra Gunnar manna kurteisastur og viðfeldnastur, eins og hann í rauninni var hið mesta prúðmenni hvar sem hann kom fram. Hann var gleðimaður í góðu hófi, ekki mislyndur og aldrei styggur við nokkurn mann að raunarlausu. Heimilislíf hans var allt spaklegt og reglubundið, uppbyggilegt, og þó undireins skemtilegt. Hann stóð af allri prýði í sínum sporum svo sem maki, faðir og húsbóndi. Konu sinni var hann mætur maður á allar lundir, og þó miseldri þeirra hjóna væri svo mikið, að nær því munaði þrjátíu og þremur árum, sem hann var eldri, þá var samt allt þeirra hjónabandslíf svo ástúðlegt og ánægjulegt, að leitun er á öðru

eins. Börnum sínum hèlt hann af mestu alúð til góðra siða, og vildi veita þeim hverju fyrir sig þá kunnáttu og mentun, er hann hugði þeim hentasta. það var og ekki sízt þessa vegna, eða til að styðja að uppfræðíng sona sinna hinna ýngri, að hann haustið 1851 tók á heimili sitt son mágs síns af fyrra hjónabandi, Björn Halldórsson, kandídat af prestaskólanum, sem sumarið eptir vígðist til hans fyrir aðstoðarprest; því ekki var sèra Gunnar þá enn svo hniginn að heilsu eður mætti fyrir elli sakir, að hann væri ófær til að gegna prestsverkum, og hlífði sèr ekki heldur við upp frá því að gegna þeim annarsvegar, það sem eptir var ólifað.

það var eptirtektar vert, hvað vinnufólkssæll sèra Gunnar var allan sinn búskap. Mátti af því marka vinsældir hans og góðan heimilisbrag; því ekki hændi hann hjú að sèr eða hèlt þeim hjá sèr með því, að bjóða þeim meira sjálfræði ellegar hærra kaupgjald heldur en aðrir menn, og gekk honum einkum það til, að honum þótti hið vaxanda sjálfræði og hækkanda kaup hjúa vera hag bændastèttarinnar til falls, og horfa til stórra vandræða fyrir hina fátæku búendur nú og síðar; vildi hann þá ekki með sínu dæmi vera valdur að því, að auka á þetta.

Eins og að sèra Gunnar þannig, sem hèr er lýst, vegna daglegrar breytni sinnar og

umgengni naut heiðurs og hylli allra heimamanna sinna, svo urðu og einnig flestir aðrir útífrá að virða hann og unna honum hugástum, þegar þeir kynntust við hann og vissu hver maður hann var. Hann var ljúfur og lítilátur við alla, hreinlyndur og einlægur við hvern sem var að skipta, raungóður og ráðfastur, áreiðanlegur og orðheldinn. Honum var bæði gjarnt og lagið að koma hvervetna fram til hins betra; hann stundaði af hjarta frið og eindrægni í öllu góðu um daga sína. Líf sjálfs hans rann líka áfram friðlega og rósamlega, og endaði að lyktum með svo hægum dauðdaga, sem þegar log hverfur af ljósi. Viðskilnaður hans bar að eptir hálfs mánaðar legu sunnudaginn hinn 24. dag Julimánaðar 1853, um guðsþjónustugjörð, einmitt á þeirri stund, þegar söfnuðurinn í kirkjunni hèt á hjálpræði hèr að ofan honum til fulltíngis í hans dauðastríði. Flestir sóknarmanna, sem þá vóru viðstaddir, kusu sèr að njóta þeirrar sorglegu ánægju að sjá hann látinn, ok taka með sèr skilnaðarkveðju frá augum hans nýbrostnum. Öll búandi hjón í sókn hans vóru við útförina, og þar var, að eg ætla, enginn sá, sem ekki saknaði hans úr tölu hinna lifendu, ok horfði með trega á það skarð, er autt var eptir hann. Söknuði þeirra, sem næstir stóðu, má nærri geta; hann var mikill, eins og missirinn, en stiltur

og hógvær eins og maðurinn hafði verið. Í harminum sjálfum þótti þeim þó, eins og er, gott að sjá eptir góðum í guðs hendur. Og víst munu þeir enn í dag, og opt hèr eptir, verma sig í kulda lífsins við endurminníng þessa vinar síns. Minníng hans er og var og verður í blessun hjá þeim, sem hann var handgenginn og starfaði á meðal; því hann gekk þángað, sem vegir skildu, í einfaldleika, rèttvísi og kærleika, guði þekkur, mönnum þarfur. Þakkir og lof fyrir hèrvist hans sè þeim drottni, sem gaf hann og tók! —

---

## II.

# HÚSSKVEÐJA,

haldin að Laufási, 31. dag Julimánaðar 1853,
af
sèra **Ólafi Þorleifssyni** í Höfða.

---

Miskunsami guð, himneski friðþægði faðir! Þú herra lífsins og dauðans, sem hèðan hefir kallað og heim flutt til þinnar eilífu sælu sál þessa þíns trúa þjóns, sem hèr liggur lík fyrir sjónum vorum, sem kvaddi heim þenna í trúnni á þinn elskulega son Jesum Krist, og hvílir því vært dauðans blundi, að eilífu frelsaður frá öllum mæðum, þjáníngum, veik-

indum og stríði þessa vors hèrvistar-lífs. Lát þú, himneski góði faðir! huggun og hugsvalandi von heilags anda streyma ofan yfir hjörtu allra þeirra, sem syrgja hèr horfinn vin að stundlegum samvistum, svo þeir trúi því, að hann fagni nú frelsinu hjá frelsara heimsins, ásamt öllum sínum á undan heim fluttu ástvinum, og að þeir fái aptur að finna hann og faðma í eilífri gleði á landi lifandi manna. Amen!

Það er þúngt að tala yfir framliðnu líki elskaðra ástvina fyrir þann, sem, þreyttur af ýmsum hretviðrum þessa vors hèrvistar-lífs, hefir hlotið að sjá á bak mörgum ástkærum, elskuverðum ástvinum sínum. En á aðra hlið er það inndælt, að minna yður á, sem nú fellið tilhlýðileg sorgar og saknaðar tár yfir andvana líki þessa vors framliðna bróður, þær huggunar og hugsvölunar ástæður, sem Jesu heilaga orð hefir fyr og síðar verið, já, sem skal verða mèr deyjandi, eins og öllum sannkristnum, harmandi mönnum, örlátasti hugsvölunar brunnur. Eg vil þá með fæstu orðum benda yður, hjartkæru syrgjandi ástvinir, til þess, er frelsari vor sagði við lærisveina sína, þegar systurnar í Bethaníu sendu til hans og kunngjörðu honum dauðleg veikindi Lazari vinar hans (Jóh. 11, 11.): Lazarus vinur vor sefur, eg fer nú að vekja hann. Þessi huggunar og hugsvöl-

unarríku orð eiga að vekja þá vafalausu sannfæríngu í hjörtum vorum, að þessi vor framliðni bróðir, sèra Gunnar Gunnarsson, sofi, að hann hvíli nú vært og rólega í tilliti sinnar veiku líkama-tjaldbúðar. Vèr eigum þessvegna

## Að álita dauða hans eins og svefn.

Það er vafalaus huggun hjörtum vorum, sem syrgjum hvarf ástvina vorra inn í dauðans dimmu, að ímynda oss þannig dauða þeirra; því eptir að vèr höfum sofið vöknum vèr með endurnýjuðum kröptum. Menn hafa nefnt svefninn bróður dauðans, vegna þess, að sá sem sefur og hinn framliðni eru hvor öðrum líkir, þareð þá báða vantar hreifíngu og sjáanlega ímyndun um sig sjálfa. En, þótt svefninn og dauðinn megi heita bræður, þá eru þeir samt næsta ólíkir; annarr þeirra er ætíð velkominn enum þreytta manni, eins og hinn er óttalegur hverri lifandi skepnu. Í faðmlögum blundsins finnum vèr frelsi frá öllum þeim mæðum og andstreymi, sem elta oss í lífi voru. Dauðinn býður oss líka skjól fyrir öllum mótlætis-bárum, og mörg kemur sú stundin fyrir þann þjáða og þreytta, á hverri honum finnst æskilegt að þiggja þá hvíld, sem dauðinn breiðir á móti honum. Þó eru það flestir, sem eptir skynsamlega ígrundun þessa efnis vilja heldur kjósa að

láta sig hrekjast híngað og þángað innanum dagleg störf á lífsins óstöðuga hafi, heldur en þeir vili vafalaust deyja. Vèr flýjum með segli og árum, eins og sjómaðurinn boða og grynníngar, á meðan oss er mögulegt, undan dauðanum. Svona er því varið fyrir flestum, svo oss er það hvergi nærri nóg, að vèr heyrum dauðann nefndan bróður svefnsins; hann verður að afklæðast öllu hans óttalega útliti, verða oss blíður og velkominn, viðlíka og svefninn hinum þreytta iðjumanni. Þannig hefir Jesus útmálað hann, og leidt hann þannig fyrir sjónir öllum elskendum sínum. Lazarus vinur vor sefur, sagði hann, og við annað tækifæri: stúlkan er ekki dauð, heldur sefur hún (Matt. 9, 24). Þetta var líka meira en orðin tóm, því Jesus sjálfur leiddi í ljós lífið og ódauðleikann. Hann sagði um sig sjálfan: eg em upprisan og lífið; hver sem lifir og trúir á mig, skal aldrei deyja (Jóh. 11, 25-26). Hann gekk sjálfur út af grafarinnar og dauðans dimmu, og varð frumgróði þeirra sem sofnaðir eru, segir postulinn (1. Kor. 15). Svo er þá dauðinn fyrir þann trúa, en þar hjá þreytta þjón drottins, ekki framar óttalegur. Að deyja er nú að sofna, og gröfin ekki framar óttalegt fángelsi rotnunarinnar, heldur hægt hvílurúm líkamans, óhult svefnhús, hvar frjófgunarefni hans geymist, og mun aptur ófor-

gengilegt endurlifna, þegar morgun ens æðra lífs vekur oss að liðinni dauðans nóttu, þá allir þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra guðs sonar raust, og þeir rèttlátu upprísa til eilífs, óforgengilegs, sælufulls lífs, að nýju samtengdir þeirra helguðu sálum.

Með von og trú þessari í hjartanu lagði þessi vor ástkæri bróðir aptur augu sín, þegar dauðans dimma leið yfir hann, næstliðinn drottinsdag (24. Juli), lítilli stundu eptir að samþjónn hans í drottins helgidómi sendi hjartnæmar bænir upp að náðarstóli frelsarans fyrir vægð, hvíld og frelsi þessa vors hjartkæra, reglubundna og vandaða guðs orðs þènara í öllu dagfari. Horfið því hughraustir, þèr syrgjandi ástvinir, á líkkistu þessa vors hjartkæra framliðna! Hann er ekki dauður, heldur sefur hann, og þessum svefni, í tilliti hans í dauðans stríði ónýtta, niðurbrotna líkama til lengri íbúðar sálarinnar, eptir fylgir uppvöknun hans til æðra og betra lífs, þegar upprisudags-morguninn rennur upp, og frelsarinn fer að vekja hann eins og forðum Lazarum.

Í annan máta veitir það blíða huggun hjörtum vorum, að hugleiða dauðann eins og svefn; því sè hann svefn, þá er hann ekki annað en hvíld. Þegar iðjumaðurinn leggur þreytta limi sína að kvöldi til hvíldar, og svefninn endar hans þúngu dagsvinnu,

þá unna allir góðir menn honum þessarar hvíldar, og vèr gjörum vorum himneska föður hjartans þakkir fyrir það, að hann gaf oss þessa hvíld eptir hita og þúnga dagsins. En þjónustumaðurinn hlýtur aptur að vakna næsta morgun til nýrrar iðju, nýrrar þjáníngar, á meðan stundaglas hans lífsstunda er ekki út runnið. Betri og varanlegri er þar á móti hvíldin fyrir þann sanna frelsarans sporgaungu- og þjónustumann í gröfinni. Þar vekur engin ný líkama-þjáníng hann; þar finnur hann algjörða bót, algjörða lækníngu allra sinna líkamlegu meina, sem stundum lengst af hèrvistinni þjá suma drottins iðjumenn. Hversu mátti ekki helguð sál þessa vors ástkæra, framliðna bróður fagna því, að mega nú algjörlega frelsast frá því frumefni veikindanna, er nú loksins vann sigur á fjöri hans og lífi? — Hann fann það, kannaðist við það, lèt það ásannast í orði og verki, hversu það er inndælt að fá bót meina sinna, fá dálitla hægð og linun líkamans þjáninga, jafnframt því að hann, sem rètttrúaður guðs orða þjónn, flutti orð síns herra og frelsara hreint og tilgerðarlaust að eyrum og hjörtum tilheyrenda sinna. Hvað óþreytanlegur hann var í þeirri kærleiks-iðju, sem nærgætinn læknir, að bæta vanheilsu bræðra sinna, mega þeir mörgu sanna, sem þess hafa notið. Já, hús þetta ber því, sem stendur, augljóst

vitni. Þetta var dagleg iðja hans jafnframt hinu, að gegna eptir mætti köllun sinni, þann 25 ára tíma, sem hann átti dvöl í þessu húsi. Að hann sè oss og ótal mörgum öðrum í þessu tilliti söknunar verður, er öllum auðsèð; en hitt er þá gleðilegt fyrir oss, að þessi kærleiksverk hans fylgja honum, gleðja nú sál hans í vistarverum fagnaðarins; því sælir eru þeir, sem í drottni deyja, þeir hvílast frá vinnu sinni, en verk þeirra fylgja þeim, segir guðs andi í opinberunar-bókinni.

Og nú enn framar, sè dauðinn svefn, þá eigum vèr von á gleðilegasta samfundi þessara vorra ástkæru. Dagurinn leiðir sèrhvern af oss til sameiginlegrar vinnu og verka, hvern öðrum til gagns og gleði; meðan hann líður áfram gefum vèr hver öðrum til kynna hugrenníngar vorar, vilja og innbyrðis vinahót, ellegar vèr komum saman á honum til sameiginlegrar guðræknis-iðju, til hátíðlegrar tilbeiðslu drottins og blíðrar hugsvölunar af brunni Jesu heilaga orðs. Þannig líður dagur eptir dag, stund eptir stund, þángað til fer að kvölda, og nóttin reifar jörðina í sinni svalandi dimmu. Þá skiljast að vinir og vandamenn; því sèrhver þeirra gengur til hvílu sinnar. En hvað? — Ef vèr hefðum ástæðu fyrir að óttast, þegar vèr vöknuðum að morgni, að þeir væri allir horfnir oss, er vèr buðum góðar nætur kvöldinu áður, ef

vèr þá værum fluttir í ókunnugt land, hvar enginn þekkti oss, enginn bæri neina velvild eður elsku til vor, mundum vèr þá geta sofnað rósamir? — Ó, hvað þúngt væri þannig að kveðja ástvini sína að kvöldi! — Svona beisk og þúng yrði oss vor seinasta kveðja, ef vèr, að enduðum dauðans blundi, ættum að sönnu að vakna, en verða þó einmana, finna aldrei þá sem oss vóru ástkærir hèr í lífi, ellegar fá að vera hjá þeim. En sælir erum vèr, að vèr eigum lángtum betri von. Jesus frelsari vor skildi við vini sína með því loforði: eg skal sjá yður aptur, þá skal yðar hjarta fagna, og enginn þann fögnuð frá yður taka. Þetta fyrirheit enti hann, þegar hann upprisinn birtist meðal þeirra. Hann, sá sami, blíði Jesus, er þeir áður höfðu sèð hneigja höfuðið, gefa upp andann og vera lagðan í gröfina, þá heilsaði hann þeim með himneskri blíðu og sagði: Friður sè með yður! — og þegar hann fór til himins upp á veldisstól síns himneska föður, þá gaf hann þeim það hughreystandi fyrirheit, að þeir skyldi koma til sín, vera þar sem hann væri, og enginn skyldi framar geta skilið þá frá sèr. Þess vegna er líka vor dýrmæta von um hið eilífa, sæla og óforgengilega líf svo rík af huggun og blessun vorum harmandi hjörtum. Vèr eigum að finnast aptur; vèr eigum að finna þig, hjartkæri framliðni bróðir!

já, finnast til þess að þurfa aldrei framar að skilja. Eins og það er blíð umgengni, velvild og elska guðelskandi manna, sem gjörir líf vort svo ánægjufullt hèr á jörðu, svo mun líka gleði eilífrar sælu mikið vaxa, verða inndælli af umgengni vorra hjartkæru, sem njóta sömu sælu og gleði. Ó, þá munum vèr fagna með óumræðilegri unaðsemd, og þann fögnuð getur ekkert framar frá oss tekið.

Með þessari sælu von, þessari vafalausu trú, fyrir verðskuldun og fyrirbón Jesu Krists, sofnaði þessi vor ástkæri bróðir dauðans væra blundi. Með sömu von og trú í hjarta mínu í lífi og dauða vil eg þá í hinnsta sinni kveðja hús þetta og heimili í stað hans, er nú á burtu að berast. Í sporum hans þakka eg af öllu hjarta öllum þeim, skyldum og vandalausum, nær og fjær, dygðaríku og góðu heimilisfólki, vinum og vandamönnum, sem auðsýnduð honum blíða ástúð, trygð og elskusemi, meðan þið urðuð honum samferða í lífinu. Ímyndið ykkur, þið ástkæru, elskuverðu, efnilegu börn hans, að hann kveðji ykkur nú í dag með postulans orðum: verið mínir eptirbreytendur, sem elskuleg börn, og gángið í kærleikanum! — Minnist æfinlega hans blíða, reglubundna dagfars, og allra þeirra föðurlegu áminnínga, er hann veitti ykkur. Leggist nú á eitt, að biðja öll samhuga eilífan föður miskunsemdanna, að gánga ykkur í

föður stað, leiða ykkur og stjórna til alls góðs alla æfidaga ykkar, svo þið fáið að finna hann aptur í eilífri gleði, vera hjá honum og samfagna með honum ásamt öllum útvöldum eilíflega.

En hvernig á mín stirða túnga í hans stað, eður fyrir hann, að geta þakkað yður, góða elskuverða ektakvinna hans! fyrir alla þá inndælu hjónablíðu, þolinmæði, trygð og innilegustu ástúð, er þèr, fyrir þá náð guðs og dygð, er búið hefir og býr í brjósti yðar, auðsýnduð honum án afláts allan ykkar, tæpt 19 ára, sambúðartíma? — Nei! eg skal ekki fara fleiri orðum um það, sem hèr er öllum augljóst, og enginn fær með rèttu neitað. Það er nóg, að eg ætla það, trúi því, að frelsuð sál yðar framliðna ástvinar vegsami nú eilífa gæzku og stjórn drottins, að vísu á öllum lífshögum sínum, en einkanlega fyrir það framúrskarandi lán og blessun guðs, að hann leiddi yður í faðm hans, og blessaði ykkur með svo góðum og elskuverðum börnum. Hvílíkur mun sá fögnuður verða, þegar þið öll, allir við, sem nú syrgjum horfinn ástvin, fáum aptur að finna hann í eilífri gleði! Ó, það verður sú gleði, sem ekki hefir auga sèð, ekki eyra heyrt, og ekki nokkrum dauðlegum manni komið í huga. Og þetta eigið þið víst og vafalaust, af því þið elskið guð og þann, sem hann sendi oss

til frelsis og eilífrar sáluhjálpar, sinn elskulega son, Jesum Krist.

Að endíngu kveður þessi vor framliðni yður, velæruverðugi embættisbróðir! með innilegu þakklæti fyrir alla þá ánægjufullu hjástoð, er þèr veittuð honum í prestlegri þjónustu hið næstliðna ár, jafnframt og allt annað elskulegt. Verið nú líka hèr eptir hollur ráðgjafi, stafur og stytta hans eptirþreyjandi ekkju og barna hennar, á meðan þèr verðið henni nálægur, og miðlið henni, börnum hennar og öllum, er hèr syrgja góðan guðelskandi kennimann og ástvin, nægtum Jesu heilaga orðs hugsvölunar eptir því sem guð gefur yður náð til, og eins og þèr vilið við kannast, þegar þèr finnið þenna framliðna bróður vorn í eilífri gleði.

En þú guð huggunarinnar, þú himneski gæzkuríki faðir, sem nefnir þig forsvar ekknanna og föður enna föðurlausu, úthell þú straumum þinnar guðdómlegu hugsvölunar í hjarta þeirra, sem nú harma! Gef þeim þinn frið og þolinmæði í þessu þúnga stríði, en eilífa hvíld, gleði og fögnuð í þínum himnesku vistarverum, fyrir þíns elskulega sonar Jesu verðskuldun og forþènustu! Amen.

Sof þú nú sætt og rótt,<br>
Sæll elsku bróðir,<br>
Unz dauðans endast nótt! —<br>
Ástvinir hljóðir

Kveðja þig nú
Kvakandi bænar tárum,
Að gæzkan ástúðlig
Unni þeim faðma þig
Á yndis árum[1].

---

# III.

## AÐ HÚSSKVEÐJUNNI ENDAÐRI

mælti sèra **Björn Halldórsson** fram þessi stef:

---

Hèðan sjáum vèr holdið flutt,
Hèðan förum vèr allir.
Götuna hefir guðs son rudt,
Og gatan stutt
Liggur í ljóssins hallir.

Hèr sjáum vèr í dauðans dal
Dauðann á öllu vinna;
En dauðinn eitt sinn deyja skal,
Í dýrðar sal
Lífdagar aldrei linna.

---

1) þetta vers var súngið til alyktunar, eptir að líkið var borið út í kirkjuna.

Hèr tárumst vèr í tára sekk,
En tárin mega renna;
Því hver sem aldrei grátinn gekk
Ei gjörla fèkk
Á huggun himins kenna.

Gestir erum vèr allir hèr,
Eins og feðurnir vorir.
Heimkynnið uppi' á himnum er.
Heill þeim, er sèr
Heimkomu hugsa þorir.

Vel þeim, sem heldur heim til sín,
Hólpinn úr reynslu standi!
Gott er að komast, guð, til þín,
Því gleðin dvín
Aldrei á lífsins landi.

Gott er að víkja vinum frá
Og vini betri hljóta;
Gott er svölun hjá guði fá,
Og guði hjá
Vinar í von að njóta.

Sætt er að líta í sælli vist
Með sjónum trúarinnar
Þá sem vèr hèðan höfum misst,
Og herrann Krist,
Brúðgumann brúðarinnar.

Ljúft er að ferðast guðs um geim
Á góðra vina slóðum;
Yndi' er að keppa eptir þeim
Í annan heim,
Og sjást hjá guði góðum.

Gott er að lifa, guð er múr,
Sem gætir allra sinna.
Gott er að deyja, guð er trúr,
Á grafar dúr
Lætur hann lífið vinna.

---

# IV.

## LÍKRÆÐA,

flutt í Laufáskirkju, 3. dag Augustmánaðar 1853,

af

**Birni** presti **Halldórssyni**.

---

Hèr sè friður í húsi því,
Sem hljómar raustin drottins í!
Friður með anda framliðnum!
Friður í brjósti syrgendum!

Þegar önd vor er þreytt, þá finnur hún hvergi hvíld nema í þèr, guð vor og frelsari! Æ, láttu oss nú á þessari stund finna hvíld

sálum vorum í þínu blessaða huggunar-orði, og forsmekk þeirrar eilífu hvíldar, sem oss er fyrirbúin hjá þèr í þeim himnesku vistarverum föðurhússins, þegar vèr erum búnir að erfiða og mæðast, stríða og deyja í trúnni á þinn son og von eilífs lífs. Hugsvalaðu þeim sem harma, og láttu hrygð þeirra snúast í þann fögnuð, sem enginn fær frá þeim tekið! — Þú heyrir bæn vora, himnanna drottinn! fyrir þèr er ekkert orð ómáttugt, og þá ekki heldur þetta orð, sem sonur þinn sagði oss: Sælir eru sorgbitnir, því þeir munu huggun hljóta. Snúðu oss til þín í allri sorg, helgaðu oss í hverju mótlæti, og leystu oss svo, þegar stundin er komin, frá áþján fallvaltrar veru til dýrðlegs frelsis guðs barna! Hjálpaðu oss, miskunaðu oss, eilífi Faðir vor, þú sem ert á himnum, o. s. frv.

## Texti.

Lúk. 24, 50-53.

*Síðan fór hann* (Jesus) *með þeim út til Bethaniu, hóf upp hendur sínar og blessaði þá; en meðan hann var að blessa yfir þá, skildist hann frá þeim, og varð uppnuminn til himna. En þeir fèllu fram og tilbáðu hann. Sneru síðan aptur til Jerusalem næsta glaðir, og vóru stöðuglega í musterinu, lofandi guð og vegsamandi.*

Þetta eru seinustu orðin í bók guðspjallamannsins Lúkasar. Þannig hljóðar frásaga hans um hina sýnilegu burtför lausnara vors

af jarðríki. Þetta er lýsíngin á síðasta viðskilnaði hans við heiminn og ástvini sína. En hvað eiga þessi orð, þessi frásaga um himnaför Krists, hvað á hún við oss í þessum sporum? Hvernig eigum vèr að heimfæra hana til þess, sem nú vakir oss fyrir hugskotssjónum, og veldur þessum samfundi vorum? Ó, því er miður, syrgjandi vinir, að mig vantar andlega sjón og himnesk orð, til að geta sagt yður það eins og eg vildi gjöra og ætti að geta. En eg gjöri ráð fyrir því, og það er mèr nóg, að orð mín hitti ekki annað fyrir en kristilegt hjarta, sem vorkennir takmörkuðum anda og veiku máli.

Það er sjálfsagt, að eins og líf Krists var æðra og þýðíngarmeira en nokkurs annars meðal mannanna sona, þannig er og lýsíngin á burtför hans af heiminum í sjálfu sèr einstök og háleitari en svo, að frá slíku hafi síðan verið sagt, eða geti orðið sagt um nokkurn dauðlegan mann. Hann hafði uppfyllt allt rèttlæti, og fullkomnað það verk, sem faðirinn hafði fengið honum; hver hefir gjört það á þessari jörðu nema hann einn? Þegar vèr í samvizkunni förum að gjöra upp reikníng vorn við guð í himninum, hljótum vèr þá ekki að játa: Fyrir þèr er enginn rèttlátur og ekki einn! Og þegar vèr skoðum verk vor, jafnvel hin beztu, og berum þau saman við fyrirmynd vora og ákvörðun,

verðum vèr þá ekki að finna til þess og kannast við það, að þau eru ófullkomin og ekki nema hálfverk? — Hann var heilagur og óstraffanlegur; en þetta boðorð: Eins og sá er heilagur, sem yður hefir kallað, svo verið þèr og einnig heilagir í öllu yðar dagfari! — það verður að hrópa eins og óuppfyllt krafa til vor, sem fæðumst og lifum í syndugu holdi, og, þegar sem bezt fer, getum vèr ekki fylgt því nema með hjartanu, það er að skilja, vèr finnum að það á svo að vera, og oss lángar til að það væri svo; en vèr náum því ekki, vèr getum ekki orðið nógu hlutskarpir til að höndla heilagleikann, hann stendur fram undan oss eins og það takmark lífsins, sem hverfur inn í aðra veröld, eins og aðstefnumið þeirra eptirlánganna vorra, sem finna hèr ekki hvíld, og verða því að leita hèðan til hins fullkomnara ástands í betra heimi. Og Kristur var sigurvegari dauðans. Dauðinn hafði ekkert nauðsynlegt vald yfir hinum rèttláta og heilaga. En hvernig átti sigurinn að verða öðrum trúanlegur og bersýnilegur, ef það hefði ekki verið vitanlegt og vottfast, að hann stè upp frá jörðunni til dýrðar sinnar? Eins og hann var af himnum kominn og í heiminn borinn með furðuverðum hætti, þannig varð skilnaður hans við heiminn og för hans til himins að vera dýrðleg og dásamleg.

En himnaför Krists er svo miklu meira fyrir oss; hún hefir í tilliti til vor aðra dýrmætari þýðíngu en þá, að vèr skulum mega stara á hana eins og annað guðlegt stórmerki. Hún hefir svo mikið inni að halda af þeim lærdómi, sem oss annars mundi bresta, af þeirri huggun, sem vèr erum svo þurfandi fyrir, af þeirri von, sem oss er svo ómissandi, til þess að vèr getum keppt áfram leið vora með rósemi og trausti, og loksins komizt að því veglega miði, sem oss er fyrirlagt. Þessi lærdómur, huggun og von, sem oss sprettur af uppstigníng drottins vors, innifelst í því og byggist á því, að hann er foríngi sáluhjálpar vorrar og frumburður á meðal margra bræðra, sem með þeim sama krapti, er hann megnar að leggja alla hluti undir sig með, mun ummynda líkama lægíngar vorrar, að hann verði líkur hans dýrðar-líkama (Phil. 3, 21.). Af því vèr vitum það, að Kristur er til himins farinn, þá vitum vèr líka hvar oss er ætlaður staður, því hann hefir sagt: „Eg fer burt að tilreiða yður stað", og: „þegar eg er burt farinn og hefi tilbúið yður bústað, þá mun eg koma aptur og taka yður til mín, svo að þèr sèuð þar sem eg er" (Jóh. 14, 2 og 3.). Og í annað skipti bað hann og sagði: „Faðir, eg vil að þeir, sem þú gafst mèr, þeir sè hjá mèr, þar sem eg er, svo þeir sjái mína dýrð, sem þú gafst mèr" (Jóh.

17, 24.). Vegna þess að hann, sem gaf þetta fyrirheit og bað þessari bæn, vegna þess að hann skildi dauðann eptir sigraðan að baki sínu, og sýndi oss hvernig himininn opnaðist til að taka á móti hans upprisna líkama, þá er nú ekki lengur eintómt myrkur yfir þessu dauðra ríki, sem vèr lifum í; hèr er dýrðlegur morgunroði runninn upp frá landi hinna lifendu; steinn grafarinnar er ekki svo þúngur, að engin von sjáist til að velta honum af; engum af þeim, sem faðirinn hefir gefið syninum, getur nú dottið í hug að reisa upp minnisvarða á legstöðum hinna dánu með þessari yfirskript: „Híngað og ekki lengra!", heldur standa í hjörtum trúaðra þessi vonarinnar orð, skrifuð með guðs fíngri: „Eg er upprisan og lífið, hver sem á mig trúir skal ekki dauðann smakka að eilífu". Óendanlegar þakkir og vegsemd sè drottni vorum Jesu Kristi, sem hefir afmáð dauðann, en leidt í ljós lífið og ódauðleikann með sínum náðarlærdómi (2. Tím. 1, 10.), og risið upp og stigið til himins í mannlegri mynd, til þess að vèr skyldum geta gengið úr skugga um, hver að er ákvörðun veru vorrar, og trúað því, sem postulinn segir sè sannur lærdómur, að, ef vèr með honum deyjum þá munum vèr og með honum lifa (2. Tím. 2, 11.). Eilíft lof sè höfðíngja lífsins, sem skildi svo við oss, að skilnaðarkveðja vor til góðra ást-

vina vorra, sem sofnaðir eru, þarf ekki að vera svo, eins og hún væri eintóm endurminníng þeirra á dauðadegi, heldur getur verið, ef vèr getum trúað, sæluríkt hátíðahald, þar sem vèr höldum helga fæðíngarstund þeirra til annars betra lífs, þeirra uppstigníngardag frá veikleika til styrkleika, frá erviði til hvíldar, frá raunum til unaðar, frá von til uppfyllíngar, frá jörðu til himins.

Jesús er upp af jörðu stiginn
Og Jesú fylgja vinir hans;
Jörð er í faðm við himin hnigin,
Hèðan er vegur dauðlegs manns
Lagður opinn í ljóssins vist,
Lifi' hann og deyi' í trúnni á Krist.

En skilnaður Krists við jarðríki bregður ekki að eins himnesku ljósi vonar og huggunar yfir þenna raunalega heim, heldur er hann líka fyrirmynd fyrir viðskilnaði þeirra, sem helgaðir eru af anda Krists. Þegar vèr sjáum í anda Jesum hverfa hèðan, og skilja glaðan við glaða, þá er eins og vèr heyrum úr Paradís mannkynsins þá rödd sem segir: þannig var hinum saklausa manni ætlað burtför af þessari jörðu, þannig átti hann með heilagri sál í hreinum líkama að líða hèðan á friðarins vængjum til æðri skoðunar, stærra verkahríngs og dýrðlegri sælu, þegar hann væri orðinn fullreyndur í prófinu, og algjörlega búinn að leiða til lykta ætlunarverk sitt þessa heims

í heilagleika og rèttlæti, samkvæmt guðs vilja. En maðurinn fèll úr tign sinni og sameiníngunni við guð, og drottinn rak Adam burt og setti Kerubim fyrir austan Edens garð, með loga þess brugðna sverðs, til að geyma veginn að lífsins trè (Gen. 3, 24.). Þá varð endir hins jarðneska lífsins að dauða, þessum hryllilega og sára skapadómi vor allra, sem enginn getur hjá komizt, og enginn veit hvenær yfir sèr verður upp kveðinn. En sá sem upp farinn er í hæðina og hefir mönnunum gjafir gefið (Eph. 4, 8), hann hefir og gefið þeim þá gjöf, að geta sigrazt á beiskju dauðans, ekki einúngis þess vegna, af því hann hefir sýnt þeim og afhent þeim í voninni sæla heimför fylgdarmanna sinna til föðursins, heldur einnig af því, að hann hefir sljófgað hjá þeim brodd syndarinnar, og gefið þeim krapt til að geta borið líkíngu sína í lífinu. Því fremur sem þetta getur auðnazt, þeim mun kristilegra sem líf mannsins er, þeim mun rólegri verður dauðinn, þeim mun mýkri viðskilnaðurinn, bæði fyrir þann sem undan fer, og þá sem eptir verða. Hver eyru hefir að heyra, hann heyri það í tíma, að til þess, að vel sè dáið, útheimtist að vel sè lifað, að til góðs viðskilnaðar þarf góður undanfari! Af því að líf Jesu var svo fullkomið og gott og blessunarríkt, þá varð líka hinn síðasti skilnaður hans við vini sína svo sæll, og ekki

neinni beiskju blandinn. Þetta er fyrirmynd oss til lærdóms, og þessi fyrirmynd kemur fram á meðal vor, að vísu í lángtum smærri mynd, en þó að því skapi, sem hver og einn er hjá oss bjó og við oss skildi, að því skapi, sem hann var mönnum uppbyggilegri, guði þekkari, Kristi líkari. Hann hverfur þá með þeim mun rólegra geði frá heiminum, af því hann, meðan tíminn entist og kraptarnir leyfðu, var í verki föðursins, og trúir svo föðurnum fyrir að halda verkinu áfram, þó hann kalli heim til sín verkamanninn, þegar honum þóknast að láta vinnutíma hans vera úti. Og þó söknuðurinn, klæddur í tárum, verði æfinlega að fylgja til grafar hverju ástkæru lífi sem frá oss sloknar, þá verða samt tilfinníngar hans svo lángtum ljúfari, eða rèttara sagt æðri og himneskari, þegar vèr eigum að sjá þeim á bak, sem að var sjálfum sèr, oss og öðrum til gagns og góðs, meðan hann lifði. Oss er það þá svo mikil hugfró, þetta sem vèr sjáum, að hèr var ekki lifað til ónýtis, heldur góður grundvöllur lagður fyrir hið nálæga og fyrir hið komanda, fyrir eigið líf og fyrir annara líf. Þá er eins og komi fram skoðunarverð og hugsvalandi eptirmynd af burtför Jesu, sem lýst er með þessum orðum: „Meðan hann var að blessa yfir þá, skildist hann frá þeim og varð uppnuminn til himna". Þykir yður

það of djarflega talað, að minnast þessara orða yfir dauðlegu dupti? Finnst yður það nokkuð óviðurkvæmilegt, þó eg heimfæri þau til viðskilnaðar þessa vinar vors, sem blundar hèr hjá oss hvað holdið snertir? Haldið þèr eg ætli að hafa þau til þess, að lesa yfir moldum hans eitthvert hegóma-hrós, sem hann er nú hafinn yfir, og sem ástvinum hans mætti vera viðbjóður? — Nei, það skal ekki vera. Eg ætla ekki að segja æfisögu hans, ekki telja upp hvern einstakan kost hans. Eg á heldur ekki tal við ókunnan almenníng, þar sem eg þurfi að halda minníng hans á lopti með lofi. Eg tala við heyrendur, en ekki lesendur, við vini og vandamenn, sem guðlegt og mannlegt fèlag, skyldan og náttúran, höfðu að einhverju leyti tengt við hinn framliðna.

Það skal þá ekki vera til þess að hefja manninn, heldur til að minna oss á, að gefa guði dýrðina og þakkargjörðina, þegar eg segi við yður, syrgendur hins dána, og við sjálfan mig, sem fylli hóp yðar: Hann skildi við oss, á meðan hann var að blessa yfir oss, á meðan hann í huga og verki var að leiða blessunina til vor og yfir oss. Þèr misskilið ekki orð mín, eins og eg eigni það mannlegum mætti, sem enginn getur tekið af sjálfum sèr, nema honum sè það gefið; því eg veit það vel, að guð einn er höfundur

allrar þeirrar blessunar, sem til vor streymir af himni og jörðu, og að enginn blessunar kraptur getur fylgt neinu, hvorki dauðu nè lifanda, nema hann sè gefinn hèr að ofan, þaðan sem koma allar góðar gjafir. Við þetta kannaðist líka vinur vor, þegar hann á kvöldvöku æfinnar leit yfir það sem farið var, og sá með aðdáun það, sem hann mat með þakklæti, hversu farsællega drottinn hefði leidt sjálfan hann um liðna daga, og hve mörgum hann hefði látið gott standa af tilveru sinni, miklu fremur en hann sjálfur hefði haft vit á að stofna til, eða getað átt von á. En þó að guð sè hin skapandi uppspretta allra góðra hluta, þá getur samt maðurinn sjálfur gjört sig bæði hæfilegan og óhæfilegan til að taka á móti blessun drottins. Og þetta er vitnisburðurinn, sem hljóma skal yfir þessum moldum, drottni til vegsemdar, sannleikanum til heiðurs, en sjálfum oss undir eins til unaðsemdar og áminníngar, að hinum andaða auðnaðist að verða verkfæri guðs til að strá út einhverri blessun í hverjum þeim mannhríng, og hverjum þeim verkahríng, sem hann tók hlutdeild í. Gætin og vönduð breytni hans, hreinskilinn vili og staðfast ráðlag, urðu samtaka náð drottins til að gjöra líf hans blessunarríkt fram til hins síðasta. Margir af þeim, sem hann á ymsum stöðum, á ymsum tímum, hjálpaði og

ráðlagði, græddi og hresti, huggaði og gladdi í orði og í verki, margir af þeim eru nú of lángt frá til að vitna þetta með oss. En það ríður á engu; sá er í hæðunum sem sá það, og vitnið á himnum. Hèr eru samt nógu mörg hjörtu til að taka undir þenna vitnisburð, að hann hafi verið hjá oss, á meðan til vannst, oss til blessunar. Og þetta eru einmitt hjörtu þeirra, sem mest er að marka, af því þeir svo lengi vóru búnir að reyna manninn, og sjá hann eins og hann var sjálfum sèr næstur.

Það vitnar hún, sem drottinn úthlutaði honum til fastrar fylgdar, og búin er að fylgja honum nærfelt um 19 ár. Hún kannast við það, að sèr hafi verið gefin góð gjöf, að sèr hafi hlotnazt sá maður, sem gjörði henni dagana ljúfa og lífið lèttbært, að hann hafi viljað og stundað velferð hennar á allar lundir, og að hann frá fyrstu samverustund, allt til hinnar síðustu, hafi frá manna hálfu verið sá, sem átti mestan og beztan þátt í því, að efla ánægju hennar og farsæld. Úr djúpi saknaðarins sendir hún á eptir honum til himins þakklæti til hans, fyrir allt það sem hann var henni, og þakklæti til hans, sem ríkur er að kærleika, og lætur oss reyna það ekki hvað minnst með því, að hann úthellir kærleika sínum, góðgirni og trúfesti í sálir mannanna, til þess að einn geti greidt

götu annars og gjört veguna slètta. Þessu þakklæti hennar verður sannarlega svarað þar sem það nemur staðar; því þó líkið, sem lagt er í gröfina, sè mállaust og heyrnarlaust, þá á andinn samt rödd og endurminníngu á himnum, til að geta blessað yfir þá, sem hann unni mest og reyndust honum bezt, á meðan hjúpurinn hèlt honum. Sá kærleikur, sem hèr reyndist tryggur í ótryggri veröld, hann verður sízt gleyminn á því landi, þar sem sól kærleikans rennur aldrei til viðar.

Hið sama vitna einnig börnin hans: bæði hún, sem híngað er komin um lángan veg til að horfa á eptir hverfanda skugga síns kæra föður, — hún lætur það ásannast í hjarta og á vörum, að hann hafi verið ljós augna hennar í æskunni, sú kærleikshönd, sem leiddi hana og mentaði, styrkti og annaðist, þángað til vegirnir skildu og hann átti ekki eptir að gjalda henni aðra skuld heldur en föðurlega ást, sem hann og trúlega gjörði allt fram að dauða. — Og þið vitnið það eins, þið hinir ýngri kvistirnir, sem allt til þessa dags hafið runnið upp í foreldrahúsum, þar sem föðurhjartað blessaði yfir ykkur, föðuraugað vakti yfir ykkur, föðurhöndin leiðbeindi ykkur, til þess að forða ykkur frá öllu illu, til að sjá fyrir heilbrigði ykkar á sál og líkama, til að efla sannar framfarir ykkar, til að gjöra ykkur heiminum

nytsöm og guði þóknanleg. Hvort sem hin síðasta bæn föður ykkar hefir beinlínis lotið að ykkar högum, ellegar ekki, þá segi eg ykkur það satt, að hann skildist frá ykkur á meðan hann var að blessa yfir ykkur; því hann hafði ekki annað til ykkur til handa, heldur en blessandi anda. Blessun hans hvíldi yfir ykkur á dauðastund hans allt eins og áður, og hún hvílir yfir ykkur í margan máta, bæði í sýnilegum og ósýnilegum ávöxtum. Hún mun fylgja ykkur fram um ókunna stigu, og sá hlutinn af henni, sem er andlegs eðlis, og þið geymið í brjóstum ykkar, hann mun aldrei við ykkur skilja; því eg trúi því ekki, að þið viljið ekki öll verða samtaka að halda honum; eg trúi ekki öðru, en að þið viljið láta blessun föður ykkar hrína á ykkur og koma fram í lífi ykkar; eg trúi því ekki, að þið viljið láta hann sakna svo mikils, sem eins af fimm, þegar hann fer að telja saman og sýna vinum sínum á himnum börnin, sem drottinn gaf honum. Verið þá börn hans í anda, eins og þið eruð líkamleg afkvæmi hans. Látið hreinskilnina og stillínguna, hógværðina og siðprýðina einkenna ykkur, og bera þess merki fyrir guði og mönnum, af hvaða bergi þið eruð brotin.

Festið í huga fyr og síð
Hvað faðir ykkar vildi
Hjá ykkur efla alla tíð,

Unz hann við lífið skildi;
Og leiðið ykkur eins í grun:
Ykkar vegna hvers biðja mun
Hann þá himnesku mildi.

Hann, sem að auðsýnir miskunsemi í þúsund liðu á þeim sem elska hann og varðveita hans boðorð, hann virðist að blessa ykkur í fyrsta lið, eins og óskabörn sín og afkvæmi vandaðra foreldra.

Og hvað segið þèr þá, þèr hinir aðrir heimamenn hins heimfarna? Eruð þèr því ekki samdóma fyrir ykkar raun, að yður hafi staðið blessun af lífi hans, að það hafi verið yður ánægjulegt, uppbyggilegt og farsællegt? — Hví vóruð þèr ekki fyrir löngu farnir úr húsum hans? Hvað kemur til þess, að flestir af yður hafa verið svo lengi hjá honum, að það er fáheyrt um jafnmarga á sama stað, og ef til vill dæmalaust hjá þessari kynslóð, sem jafnaðarlega eirir því mjög svo illa, að eiga sama húsbóndann svo árum skipti? — Það er hvorttveggja, þèr hafið átt góðan húsbónda; þèr hafið játað það með vörum yðar; tár yðar hafa talað það hljóðlega yfir líki hans; — og það er líka eins og drottinn hafi viljað sýna hvað stöðuglyndið er gott og affarasælt. Húsbóndi yðar hafði ekki mörg vistaskipti á æfinni; hann átti eitt heimili fyrir æskuna, annað fyrir fullorðins aldurinn, þriðja fyrir hin efri

árin. Hann var lítið fyrir alla nýbreytni aldarinnar og umskipti; hann vildi lifa í kyrð og spekt, og halda því sem hann hafði. Þetta lèt guð honum lánast; hann launaði honum ráðfestuna með því, eins og fleiru, að gefa honum stöðuga verkamenn, til þess hann því fremur gæti stundað velferð heimilis síns með reglu og eindrægni, og haldið áfram því sama verki í sama anda. Og sjá! blessan drottins var á heimili hans, hún prýddi það að utan með tímanlegri velgengni; hún viðhèlt því að innan með samheldi í hjörtum. Hún sýnir sig eptir hann látinn á þeirri lóð, sem bar hann; hún verður eptir hjá yður, sem yrktuð hana með honum; hún streymir ofan að niður til yðar, um leið og húsfaðir yðar fram ber á altari dýrðarinnar þakklæti sitt fyrir trúa þjónustu yðar.

En þèr, sóknarbörn hans, sem dáinn er? þèr eruð komin híngað svo fjölmenn. Hvers eruð þèr að minnast? Hvaða vitnisburð gefið þèr prestinum yðar fyrir þau 25 ár, milli þess sem drottinn gaf hann og drottinn tók hann? Segið þèr ekki sama og vèr heimilisbúar hans, að hann hafi verið að blessa yfir yður, á meðan hann skildi við yður? Að hann hafi viljað yður vel, og verið yður vel, á meðan auðið var, og að þèr hafið hjá yður margar menjar þess í anda og sannleika? Eða áttuð þèr ekki góðan prest? Eg

veit að vísu hvern menn helzt eru vanir að nefna því nafni, nefnilega þann, sem bezt er gefið að beita í kirkjunni sverði andans, sem að er guðs orð. Og víst fórst þeim, sem þèr áttuð, víst fórst honum þetta ólastanlega, þó honum væri margt annað betur gefið. Hann hafði ekki eiginlega ætlað sèr það, nè búizt við því á fullorðinsaldrinum, að ganga þennan veg. Drottinn sendi til hans engil sinn; það var kærleikurinn til aldraðrar einmana móður. þessi sendiboði leiddi hann nærri því ósjálfrátt í sæti föður síns, inn í víngarð verkamanna drottins; og sá, sem köllunin kom frá, hefir heldur ekki látið verk hans þar verða árángurslaust. Hann vann trúlega með þeim kröptum, sem honum vóru lèðir, og þó hann sem kennimaður kunni að hafa átt marga sèr fremri, eins og hann sjálfur játaði manna fúsastur, þá vannst honum samt meira en mörgum öðrum til að styrkja og viðhalda guðs ótta og góðum siðum í kríngum sig, af því að dagfar hans var svo samboðið stöðu hans, svo kristilegt, svo gætilegt, svo eptirbreytnisvert. Hann braut það ekki niður á rúmhelgu dögunum, sem hann bygði á þeim helgu; og þann prestinn, sem svo er, hann skyldu allir helzt kalla góðan; því líf hans verður í söfnuðinum eins og döggin, sem fellur á hverjum sólarhríng, og frjófgar jörðina miklu meir,

þó minna beri á, heldur en sú regnskúr, sem ekki kemur nema einusinni í viku. Guð gæfi, að allir vèr, sem stöndum í sömu sporum, værum eins og döggin, en ekki eins og skúrin! Þau áhrif, sem breytnin gjörir innan þess hríngs, þar sem maðurinn nær til, þau eru vafalaust meiri en verkanir orða hans; þau verða svo miklu jafnari, og búa betur um sig hjá þeim, sem fyrir verða. Kennimaðurinn, sem sjaldan sýnir það, að hann sè kristinn, nema í prèdikunarstólnum, hann er eins og þessi hljómandi málmur og hin hvellandi bjalla, sem postulinn talar um (1. Kor. 13.). Þannig var ekki sá sem þèr mistuð. Hann sýndi yður það, eins og hann sagði yður það, hvernig þèr ættuð að lifa sparlega, rèttvíslega og guðrækilega í heimi þessum. Eða vantaði hann margar af þeim dygðum, sem guðs orð segir að eigi að finnast hjá þeim, sem er biskup, kennimaður eða tilsjónarmaður? Var hann ekki einnar konu eiginmaður, eða með öðrum orðum, var ekki hjónaband hans ástúðlegt, heiðarlegt og fagurt til fyrirmyndar? Var hann ekki árvakur í allri köllun sinni? Var hann ekki hófsamur? Fór honum ekki vel kristileg sparsemi, þessi úrelta dygð, sem fáir þora nú að halda á heimilum sínum, síðan synir aldarinnar, hègómminn og vaninn, gjörðu hana landflótta? Var hann ekki siðprúður, hvar sem hann sást?

Var hann ekki gestrisinn við alla, sem til hans komu og nokkurs þurftu? Var hann nokkur drykkjumaður eða ofstopasamur? Var hann ekki fremur gæfur, frásneyddur deilum og óágjarn? Veitti hann ekki heimili sínu góða forstöðu og hèlt með spekt börnum sínum hlýðugum? Í sannleika gaf hann yður í öllu þessu gott eptirdæmi, og það hefir vissulega borið miklu fleiri góðar afleiðíngar, en eg fái sèð eða talið. Ef þèr skylduð biðja mig að sýna yður, hvar þessir ávextir sè, þá mætti eg að vísu svara yður með orðum Jesu: „Guðs ríki kemur ekki þannig, að á því beri, og ekki verður sagt: sjá, það er þar, eða það er hèr; því guðs ríki er hið innra í yður (Luk. 17, 20 og 21.). En eg vildi samt í sem styztu máli benda yður til ávaxtanna með tveim orðum, sem yfirgrípa bæði hið innra og hið ytra, og innibinda mikið. Þessi orð eru friðsemi og siðsemi, hinar þarflegu fèlagsdygðir, sem blómgast á meðal yðar meir en víða hvar annarstaðar. Þetta sè ekki sagt til þess, að neinn stæri sig, heldur til þess, að hver og einn lofi með auðmýkt guð í hjarta sínu fyrir allt það gott, sem hann lætur þar spretta, fyrir þá náð, að hann gefur vöxt því sem maðurinn í veikleika plantar og vökvar. Og það skal sagt til þess, að þèr gætið yðar, svo að enginn taki kórónu yðar frá yður.

Drottinn gefi því orði sigur! þó hirðirinn sè sleginn, þá láti hann ekki sauði hjarðarinnar sundur tvístrast! Hann virðist að gefa yður það, sem hann á einum stað lofar í ritníngunni, hirða eptir sínu hjarta, sem vakti yður með greind og framsýni (Jer. 3, 15)! — Ef yður hlotnast aptur í stað hins burtfarna sá, sem að öllu leyti verður yður eins hollur og uppbyggilegur, þá er það mikil gæfa, og mikið þakklætisefni frammi fyrir honum, sem alla hluti kann betur að gjöra heldur en vèr skynjum.

En — nú er að þakka drottni fyrir það sem liðið er. þegar Jesus var horfinn lærisveinum sínum inn í dýrð föðursins, þá tilbáðu þeir hann. þegar vinir vorir hverfa frá oss til betra lífs, þá skulum vèr tilbiðja guð; þá skulum vèr flytja honum lofgjörð vora, og það því fúslegar, því innilegar, sem vèr nutum meira, á meðan vèr áttum þá. Vèr höfum notið mikils, á meðan vèr áttum hann, sem vèr nú söknum. Eg hefi ekki talið það nærri því allt; eg ætla hjörtum yðar að bæta því við, sem á brestur, þar er það líka miklu betur geymt, heldur en í líkræðu. þèr, sem áttuð hann fyrir athvarf og yndi daga yðar, þèr, sem búnir vóruð að reyna trygð hans og hreinskilna velvild um mörg ár, þèr, sem leituðuð lækninga til hans í kránkleika yðar og fenguð hjá honum lètti eða

meinabót, þèr, sem sóktuð ráð til hans, þegar þèr vóruð í vanda staddir, — allir þèr, sem með einhverjum hætti funduð yður styrkta eða gladda af því, að búa saman við hann, skipta við hann, tala við hann, þiggja af honum, yður ætla eg það, hverjum í sínu lagi, að vitna fyrir sjálfum yður og fyrir guði hvað hann var yður, hvað þèr áttuð og hvers þèr mistuð. Sjálfum mèr ætla eg hið sama. Eg skal ekki vera fjölorður um það á þessum fundi, en minnast þess við guð í hjarta mínu, hvernig að elli hans snart við æsku minni með bætandi hendi, eins og þegar kvölddöggin hnígur hóglega á hið únga grasið.

Komum þá allir, vèr sem búnir erum að njóta gjafarinnar! Komum, föllum fram og tilbiðjum guð! þökkum honum, því hann er góður! Hann stýrði því svo, að líf ástvinar vors varð farsælt og blessunarríkt; hann gaf honum rósama daga, nytsama vinnukrapta, lèttbæra elli, og að lyktum væra hvíld á hvíldardegi, eins og hann vildi tákna þar með, að nú lèti hann þjón sinn í friði fara, nú væri nóg erviðað, nú mætti hvílast, nú tæki við sú hin eilífa helgidagshvíld. Og hann tók hann ekki frá oss fyr en á þeim tíma, þegar lífið er komið á fallanda fót; hann lofaði oss að njóta hans, þángað til hann var búinn að lifa tveim árum lengur

en Davíð segir að lífdagar mannsins sè (Sálm. 90, 10). Áttum vèr að vænta meira? Skyldum vèr hafa átt nokkuð eptir af lengd lífdaga hans, eins og ógoldna skuld hjá guði? Nei, enganveginn. Vèr eigum ekki einusinni sjálfir ráð á að lifa eður deyja eptir vild vorri, sem betur fer; því vèr sjáum ekki hvað framorðið er í eilífðinni. Vèr verðum að koma og fara til lífsins og frá því aptur, þegar sá kallar, sem að hefir lyklavald allrar tilveru. Og þeir, sem oss eru gefnir þessa heims, þá eigum vèr með sama skilyrði. En, meðan húsfaðirinn á himnum ekki er búinn að láta þessa veröld af ljúka sínu fyrirætlaða starfi, á meðan hann vill láta þjónustumennina halda verkinu áfram, þá mega ekki þeir, sem eru í einhverri samvinnu, fá að fara frá verkinu allir í senn; því starfið má ekki niður falla. Þess vegna verður einn að fara fyr, og annar síðar; þess vegna hlýtur einn að skilja við annan, það er óumflýjanlegt; og þessa nauðsyn verðum vèr að láta oss lynda, einmitt af því vèr getum sèð, að hún er samhljóða guðlegri speki. Eg er viss um að þèr, sem mistuð nú mest og saknið nú mest, af því þèr elskuðuð mest, eg er viss um, að þèr kannist allir við þessa nauðsyn; já, eg er enda vongóður um, að þèr gjörið yður ánægða með hana. Það er vísast þèr finnið það enn betur, ef þèr spyrið yður

sjálfa, hvort þèr munduð nú vilja kjósa ástvin yðar aptur til þessa lífs, ef drottinn legði yður það á sjálfs vald. Munduð þèr vilja að hann sneri aptur til yðar frá sigrinum til baráttunnar, frá sælunni til óróleikans, frá æsku eilífðarinnar til elli hèrvistarinnar? Vilduð þèr að hann ynni það til fyrir yðar sakir, að gángast á ný undir byrði lífsins, þjást á ný, deyja aptur og verða, ef til vill, sjálfur að standa áður hryggur og einmana yfir yður dánum? Nei, eg veit það, þèr elskuðuð hann meir en svo. Í tárum yðar hljótið þèr þó að samfagna honum, og lofa guð fyrir frelsi hans.

En finnist yður þetta þúngbær skylda, að þakka drottni fyrir það sem verður að vera, en er þó svo tilfinnanlegt, þá hlustið eptir orðum Jesu, þegar hann fyrirsegir burtför sína til þess, er hann sendi. Það er yður til góðs, að eg fari hèðan, því fari eg ekki, mun huggarinn ekki koma til yðar, en þegar eg er farinn mun eg senda hann til yðar (Jóh. 16, 7). Þó neyðin og harmurinn sè annars vegar, þegar vèr skiljum, þá rætist þetta samt enn í dag í öllum kristilegum viðskilnaði. Þá kemur andinn fyrst til vor með huggandi raust, og segir: Sælir eru þeir framliðnu, sem í drottni eru dánir; þeir geta hvílt sig eptir erfiði sitt, því verk þeirra fylgja þeim (Opb. 14, 13). En sömu-

leiðis kemur og andinn óstyrkleik vorum til hjálpar, og gengur á milli fyrir oss með orðlausum andvörpunum (Róm. 8, 26). Hverjar eru þessar orðlausu andvarpanir? Eg játa það að vísu, að hugargrip mitt er of sljóft til að geta fylgt andríki postulans í þessum orðum; en eg vona samt, að eg rángfæri þau ekki, þegar ek skil þau um auðmjúkan hug, sem, hrærður af anda guðs, verður að beygja sig niður í lotníngu og undirgefni og andvarpa: „Faðir verði þinn vili!" — Og um mæddan hug, sem, snortinn af andanum, finnur kvikna hjá sèr einhverja ómælilega þrá eptir því sem betra er, eptir því sem sælla er og varanlegra, heldur en þetta nálæga. Andinn gengur að sönnu alltaf á milli eptir guðs vilja, en eins og hinar miklu sólir á festíngunni renna oss ekki upp fyr en í dimmu næturinnar, eins verðum vèr opt ekki varir við skin andans í hugskoti voru, fyr en sloknað er eitthvert meðlætis-ljósið, sem stóð nálægt fyrir augum vorum, eins og dagssólin. Vèr finnum það þá, að hjartað vill verða í eyði og tómt, og myrkur fer að færast yfir djúpið; og vèr ljúkum þá fegnir upp dyrunum fyrir þeim sem á knýr, fyrir anda drottins, sem kemur sjálfboðinn, til að lýsa í myrkrinu, til að leggjast á djúpið, til að sefa hinar ókyrru öldur stundlegra sorga, og snúa þeim í rètt horf að

strönd eilífðarinnar. Þannig er það oss til góðs, að ástvinir vorir fari á undan oss heim til vors guðs og þeirra guðs; það minnir oss á hvert vèr erum að fara; það verður oss uppvakníng til að keppa heim í föðurland vort; það losar oss við hið hverfula, en festir oss við hið staðfasta.

Andinn knýr oss á eptir þeim
Inn í fundanna blíða heim;
Þar sem gekk undan vinur vor,
Verða lèttari hin seinni spor.
Vèr gleymum því sem gengið er,
En girnumst hitt, er sjáum vèr
Fram undan oss á friðar braut,
Og felum oss á drottins skaut.

Gjörir þá ekki drottinn vel við oss, þegar hann með þessu móti dregur huga vorn í nánd við sig? Hvernig á hann að verja ástvinunum betur oss til handa, en að láta þá verða til þess að tengja oss við himininn? það gjörir hann að vísu, á meðan þeir búa hjá oss í friði og kærleika; en hann gjörir það engu síður þegar hann tekur þá frá oss. Þetta er eitt af þeim meðölum, sem í hans hendi miða til þess, að fullkomna verk sáluhjálpar vorrar. Þángað sem sorgin kemur, þar kemur huggarinn. Hann talar blíðlega, en þó með himneskri alvöru til

hins hrelda hjarta, og segir því að varpa ekki í burt sínum örugga hug. Hann minnir oss á, að hrygð vor sè ekki nema um stundar sakir, og að vèr, eins og guðs börn, skulum vera glaðir í guði, glaðir í voninni.

Snúum þá, eins og lærisveinarnir, aptur til Jerusalem, næsta glaðir! Höldum út á hið ólganda haf, leggjum út í stríðið og byltíngarnar, sem eptir eru, glaðir af hjálpræði drottins meðal lifenda og dauðra, glaðir í þakklætinu fyrir það sem komið er, glaðir í eptirbið þess sem í vændum er! — Eptir að postularnir skildust við meistara sinn, þá vóru þeir stöðuglega í musterinu, lofandi guð og vegsamandi. Gjörumst þeirra eptirbreytendur! Flytjum oss, allt það sem eilíft er í oss, tökum það og flytjum inn í hið ósýnilega musterið, sem ekki er með höndum gjört, inn í musteri guðhræðslunnar, trúarinnar, vonarinnar, kærleikans og þolinmæðinnar! Þar er oss gott að vera. Þetta musteri er forgarður himinsins. Sælir eru þeir, sem í forgarðinum búa; þeir verða leiddir þaðan inn í húsið, sem vèr eigum hjá guði, eilíft á himnum (Sálm. 84. og 2. Kor. 5).

En þú, sem húsið byggir, þú hinn eilífi andi styrkleikans, huggunarinnar og vonarinnar, auk þú oss styrk í hjörtum, svo að byggíngin drottins standi stöðug! Svalaðu

þeim harmþrúngnu, þeim mæddu og yfirgefnu, með gleðilegum boðskap himneskra fyrirheita! Tendraðu ljós vonarinnar sem allra skærast í dimmu dauðans, svo oss verði því lèttara að rata hinn þrönga veg, sem til lífsins liggur! Þú, sem ert eitt með föðurnum og syninum, en vilt þó búa í trúuðum sálum, gagntaktu sálir vorar með afli þíns heilaga kraptar; haltu þeim lifandi á hinum fersku vötnum, sem falla saman við straum lífsvatnsins, er rennur frá hásæti guðs og lambsins (Opb. 22, 1). Og þegar vèr erum komnir upp til Bethaniu, þegar vèr erum búnir að stíga upp á hina efstu brekku tímanlegrar tilveru, og líf vort hverfur dauðlegum sjónum, rèttu oss þá ástríkar englahendur, hendur hjartkærra, heimkominna vina, til að leiða oss inn í hinn fagnanda hóp, sem aldrei hryggist og aldrei sundrast! Bænheyr oss andi guðs, og andi hjartna vorra, fyrir mátt föðursins, og miskun sonarins! Þèr og þeim sè dýrð í upphæðum og lotníng á jörðu, að eilífu. Amen!

Göngum svo hèðan guði' á vald,
Og grafarinnar dimmu tjald
Látum á líkið falla!
Andanna braut vor andi fer,
Upp til þín, drottinn, lyptir sèr.
Ó, leið oss til þín alla!

Nú er með tárum niður sáð,
En nægileg þú hefir ráð
Þessi tár öll að þerra,
Þegar þú safnar sælli hjörð
Saman á þeirri nýju jörð,
Æðstur eilífðar herra.

Guðs son kallar: Komið til mín!
Komum! Hann býður oss til sín,
Að starfa, stríða, deyja
Og vakna' í dýrð hjá sjálfum sèr.
Sannlega til þess skulum vèr
Allshugar Amen segja!

Jón Borgfirðingur.

